hluta í þessum heimi. Telur deildin það gæfu sína að hafa getað verið þátttakandi í þessari viðurkenningu.

Íslendingadagshátíðahaldið hefir verið undir umsjón deildarinnar síðan skömmu eftir að deildin var mynduð, og var svo að þessu sinni. Ræður fluttu þeir séra Jakob Jónsson og W. S. Steinsson, yfirkennari við miðskóla (Collegiate) í Yorkton. Einsöngvar voru sungnir af Mrs. J. S. Thorsteinsson og almennur söngur með aðstoð próf. S. K. Hall. Auk þess var sýndur gamanleikur í 4 þáttum, saminn af Benjamín Einarssyni, (tengdabróðir séra Jak. Jónssonar) og leikinn undir umsjón og með aðstoð hins velþekta listamanns og leikara Árna Sigurðssonar. Var gerður hinn bezti rómur að leiknum, og mun flestum hafa þótt það ekki alllítil uppbót, við hið venjulega prógram.

Þakkar deildin af heilum hug öllu þessu fólki, og mörgum öðrum, sem ekki eru hér nafngreindir, í stuttu máli öllum þeim er á einn eða annan hátt, hafa hjálpað til að gera Íslendingadaginn ánægjulegan og uppbyggilegan.

Þrír félagar deildarinnar hafa flutt burt úr bygðinni á árinu. Eru það Mrs. Svanborg Jónasson, Mrs. Matthildur Friðriksson og dr. Kr. Austmann. Hefir alt þetta fólk aðstoðað deildina á margvíslegan hátt, á undanförnum árum, og þökkum við þeim af alhug, vel unnið starf, og samvinnu og óskum þeim allra heilla í framtíðinni.

Félagatalan mun hafa að mestu leyti staðið í stað, rúmir 40. Fjárhagurinn má teljast í góðu lagi. Deildin er skuldlaus, á allgott bókasafn og bókaskápa, en ekki munu vera peningar í sjóði, að nokkru ráði.

Með kærri kveðju til þingsins og ósk um ánægjulegt og heillaríkt starf.

Jón Jóhannsson, ritari

Th. Gíslason, fulltrúi deildarinnar "Ísland", Brown, hafði ekki skrifaða skýrslu. Kvað hann tuttugu félaga í deildinni, eða einn af hverju heimili í bygðinni, en annars heyrðu allir Íslendingar í Brown-bygð félaginu til; þeir sem ekki eru félagar, eru aukafélagar (associate members). Alt sem í þágu þjóðræknismála væri gert þar, væri unnið af öllum Íslendingum; sérstaklega væri reynt að beita unga fólkinu fyrir að örfa það til starfa í þjóðræknismálum.

R. Beck lagði til og Sigm. Laxdal studdi, að skýrslur þessar væru viðteknar með þökkum. Samþykt.

Þá las Á. P. Jóhannsson upp tillögur dagskrárnefndar sem fylgir:

**Dagskrárnefnd**

Nefndin sem skipuð var til þess að semja dagskrá þingsins leyfir sér að leggja til að mál verði tekin í þeirri ráð sem hér segir:

1. Þingsetning.
2. Skýrsla forseta og annara embættismanna.
3. Kosning kjörbréfanefndar.
4. Kosning dagskrárnefndar.
5. Skýrslur embættismanna.
6. Skýrslur frá deildum.
7. Skýrslur milliþinganefnda.
8. Fræðslumál.
9. Fjármál.
10. Samvinnumál.
11. Útgáfumál.
12. Útbreiðslumál.
13. Bókasöfn.
14. Íþróttamál
15. Minjasafn.
16. Rithöfundasjóður.
17. Kosning embættismanna.
18. Ný mál.
19. Ólokin störf.
20. Þingslit.

A. P. Jóhannsson
Th. Thorfinnsson
J. J. Bíldfell

Tillaga J. J. Bíldfells og P. Guðmundssonar, að nefndarálitið sé samþykt. Samþykt með öllum greiddum atkvæðum.

Sig. Melsteð mælti með að fundi væri nú frestað, þar eð klukkan væri orðin eitt. Tillaga Friðriks Sveinssonar og G. Jóhannssonar að fresta fundi þar til eftir jarðarför Ó. S. Thorgeirssonar var samþykt.

Fundi frestað til kl. fjögur.

ANNAR FUNDUR

Annar fundur hins átjánda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var settur kl. 4 síðdegis mánudaginn þann 22. febrúar 1937 af forseta félagsins, dr. Rögnv. Péturssyni.

Ritari fundarins var settur Guðm. Árnason.

Forseti hóf umræður um fræðslumálin og skýrði frá, hvað gert hefði verið viðvíkjandi kenslu í íslenzku í Wynyard, Sask., og á Mountain, N. Dak.

Þar eð ritari fyrsta fundar, Stefán Einarsson var kominn á fund, bað forseti hann, að lesa fundarbókina, og gerði hann það. Var hún síðan samþykt með lítils háttar orðabreytingum.

Sig. Melsteð mæltist til ,að dagskráin væri lesin aftur ,og var það gert.

Dr. Richard Beck lagði til, og Sig. Vilhjálmsson studdi, að þriggja manna nefnd væri sett í fræðslumálið. Tillagan var samþykt ,og þessir voru settir í nefndina: Thorl. Thorfinnsson, Mrs. B. E. Johnson og J. J. Bíldfell.

Forsetinn gerði grein fyrir samvinnumálinu. Bergthór E. Johnson lagði til, og Páll Guðmundsson studdi, að forseti skipaði þriggja manna nefnd í málið. Tillagan var samþykt, og þessir voru skipaðir í nefndina: Dr. R. Beck, Ásm. P. Jóhannsson og Guðm. Árnason.

Lagt til af Sigm. Laxdal og stutt af Stefáni Jóhannssyni, að kosin væir fimm manna nefnd í **útgáfumálið**. Tillagan var samþykt. Í nefndina voru útnefndir: Dr. R. Beck, B. E. Johnson, Thorst. Gíslason, Friðr. Sveinsson, Kristján Indriðason og Sig. Melsteð. Tillaga Guðm. Árnasonar og Á. P. Jóhannssonar, að þeir sex, sem útnefndir hefðu verið, væru kosnir. Tillagan samþykt.

Lagt til af dr. Beck og stutt af S. Laxdal, að fimm manna nefnd væri kosin í útbreiðslumálið. Till. samþ. Í nefndina voru kosnir: Thorst. Gíslason, P. Guðmundsson, Thorst. Thorsteinsson, Mrs. B. E. Johnson, og Walter Jóhnansson.

**Bókasafnsmál.**

J. J. Bíldfell spurði eftir skýrslu í bókasafnsmálinu. Forseti sagði, að engin skýrsla væri fyrirliggjandi. J. J. Bíldfell lagði til og Ásm. P. Jóhannsson studdi, að þriggja manna nefnd væri sett í málið. Tillagan var samþykt. Í nefndina voru settir: Davíð Björnsson, Miss Sigurrós Vídal og Ólafur Pétursson.

Guðm. Goodman talaði nokkur orð um bókasafnið íslenzka í Wynyard; skýrði frá tilhögun með bókakaup frá Íslandi og fleira.

J. J. Bíldfell gerði grein fyrir, hvers vegna íþróttamálið hefði verið tekið á dagskrá. Lagði hann til, að þriggja manna nefnd, sem ráðfærði sig við einhverja þá menn, sem eru í íþróttafélaginu "Fálkinn", eða eru málinu kunnugir, væri kosin. Um þetta mál urðu talsverðar umræður og tóku þátt í þeim Thorl. Thorfinnsson, Sigm. Laxdal, Ól. Pétursson og Hjalti Thorfinnsson. Tillagan var studd af Thorl. Thorfinnssyni og samþykt. — Forseti mæltist til þess, að nefndin væri kosin, en ekki skipuð. Nokkrar umræður urðu um það. Loks voru kosnir í nefndina Grettir Jóhannsson, Thorvaldur Pétursson og Thorst. Thorsteinsson.

**Minjasafnsmálið**

Forseti skýrði frá því, sem gert hefði verið í þessu máli; sagði hann að fólki væri það nokkuð kunnugt, af því, sem birzt hefði við og við um það í blöðunum. Í milliþinganefnd í þessu máli sagði hann að verið hefðu B. E. Johnson og dr. Ágúst Blöndal. Jón J. Bíldfell gerði grein fyrir, hvers vegna málið hefði verið tekið á dagskrá. Talaði hann um, hversu nauðsynlegt væri, að vernda gamla, fágæta, íslenzka muni frá glötun. Forseti gat þess, að sér hefði þá um daginn borist gjöf frá Mr. Jóni Jónssyni í Selkirk, gamlar beizlisstangir. Mrs. Jóhanna Cooney skýrði ritara frá, að hún hefði í eigu sinni gamla, íslenzka skauta, sem hún vildi gefa safninu. Guðm. Goodman gerði fyrirspurn um húsnæði fyrir safnið. Forseti skýrði frá, að vegna milligöngu Mr. Sig. Melsteðs, væri líklegt, að herbergi fengist fyrir safnið í The Federal Building, þar sem því yrði raðað, en að lokum væri því ætlaður staður á fjöllistasafni Manitoba í Auditorium byggingunni. Tillaga J. J.

Bíldfells og P. Guðmundssonar, að þriggja manna þingnefnd sé skipuð í málið. Tillagan samþykt. Í nefndina skipaði forseti þessa: Guðm. Goodman, B. E. Johnson og Friðr. Sveinsson.

**Rithöfundasjóðsmálið**

Guðm. Árnason skýrði frá starfi milliþinganefndarinnar í rithöfundasjóðsmálinu og las skýrslu yfir gjafir í sjóðinn. J. J. Bíldfell lagði til, að sama milliþinganefnd sé beðin að starfa næsta ár í þessu máli. Guðm. Áranson mæltist til að einum væri bætt við í nefndina, í stað eins nefndarmannsins, sem flutst hefði svo langt í burt að ekki væru tiltök að ná til hans. Stungið var upp á ýmsum, sem afsökuðu sig; en loks gaf Thorl. Thorfinnsson kost á sér, og var nefndin þá endurkosin.

Þá mintist forseti á kvöldsamkomuna, sem ætti að haldast á mánudagskvöldið. Gat hann þeirra, sem ræður myndu flytja þar, Miss Margrétar Björnsson og Mr. Hjálta Thorfinnssonar. Á eftir skemtiskránni sagði hann, að fundur mundi verða settur, undir stjórn yngra fólks; og færi fundurnin, sem og skemtiskráin, fram á ensku.

**Kveðja og heillaóskir.**

Ásm. P. Jóhannsson færði þinginu kveðju og heillaóskir frá dr. Ófeigi Ófeigssyni og frú hans, og afhenti fjármálaritara ársgjöld þeirra hjóna.

**Starfsskýrsla deildarinnar "Frón"**

Hjálmar Gíslason las eftirfylgjandi skýrslu yfir starf deildarinnar "Frón" á liðnu ári.

Fjárhagur við byrjun ársins, í sjóði $58.16. Deildin hefir haft 7 fundi á árinu sem voru sameinaðir starfs og fræðslu eða skemtifundir. Á þessum fundum fluttu erindi: Dr. Ófeigur Ófeigsson, ungfrú Svanhvít Jóhannesson, dr. Sig. Júl. Jóhanness, dr. Jón Stefánsson, frú Guðrún Finnsdóttir Johnson, séra Guðm. P. Johnson og á síðasta fundi var kappræða milli dr. Sig. Júl. Jóhannessonar og séra Jóhanns Bjarnasonar. Auk þess var söngur og hljóðfærasláttur. Deildin hefir haft með höndum bókasafnið sem hefir verið bætt á árinu bæði með bókagjöfum frá einstökum mönnum og með kaupum nýrra bóka.

Útgjöld á árinu námu $384.31. Tekjur $326.78. Félagatala 157 við lok ársins.

Winnipeg 22. febr. 1936.

Hjálmar Gíslason, ritari

Dr. Beck lagði til og Mrs. Margrét Byron studdi, að skýrslan væri viðtekin og færð til bókar. Samþykt.

**Þingmálanefnd.**

Lagt til af Sig. Melsteð og stutt af Á. P. Jóhannssyni, að þriggja manna þingmálnefnd sé sett. Samþykt. Í nefndina setti forsetinn Sig. Melsteð, Á. P. Jóhannsson og séra Guðm. Árnason.

Forseti bað um leyfi til að bæta við einum manni í hvora þessa nefnd: samvinnunefnd og útbreiðslunefnd. Friðr. Sveinsson lagði til og dr. Beck studdi, að þetta væri leyft. Samþykt. Þessum var bætt við í nefndirnar: Sig. Melsteð í samvinnunefndina og B. Edwin Olson í útbreiðslunefndina.

Fjármálanefndin lagði fram skýrslu sína. Var hún lesin af Ásm. P. Jóhannssyni.

**Skýrsla fjármálanefndar**

Fjármálanefnd hefir athugað fjárhagsskýrslur féhirðis, fjármálaritara og skjalavarðar og hefir ekkert við þær að athuga, nema að prentvilla hefir orðið í skýrslu féhirðis á ártali. Í fyrstu línu í tekjulið á að vera 15. febr. 1936, en ekki 15. febr. 1937. Leggur nefndin til að skýrslurnar séu viðteknar og bókfærðar eins og þær hafa verið lesnar, með þessari skýringu.

Á þingi 23. febr. 1937.

Á. P. Jóhannsson
B. E. Johnson
Philip Pétursson

Skýrslan og tillögur nefndarinnar voru samþyktar samkvæmt tillögu Thorl. Thorfinnssonar og Páls Guðmundssonar.

Tillaga Á. P. Jóhannssonar og Mrs. M.

Byron, að fresta fundi til kl. hálf tíu á þriðjudagsmorgun, þann 23. Samþykt.

Fundi slitið.

**Samkoma á mánudagskvöld**

Á mánudagskvöldið var haldin samkoma, sem var opin fyrir alla ókeypis.

Samkomunni stýrði varaforseti Þjóðræknisfélagsins, dr. Richard Beck, og var hún algerlega helguð yngri kynslóðinni. Þar fluttu erindi Miss Margrét Björnsson, B.A., á ensku og Mr. Hjalti Thorfinnsson, B.Sc. frá Wahpeton, N. D.. á ensku og íslenzku. Var að báðum gerður hinn bezti rómur. Fleira var þar til skemtunar, svo sem: Mrs. W. D. Hurst (Gyða Johnson, B.A.) með fiðluspili ágætu, Miss Lillian Baldwin með einsöng og Marvin Halldórsson með pianospil, lék hann meðal annars frumsamin piano-lög, eftir sjálfan sig, er spá góðu um framtíð hans, því enn er hann aðeins unglingspiltur. Að skemtiskránni lokinni var fundur settur og tók Björn Edwin Olson við fundarstjórn. Hélt hann snjalla og ágæta ræðu um nauðsyn á þjóðræknissamtökum meðal yngra fólksins. Hafði ræða hans þann árangur, að nefnd var kosin á fundinum til að hafa framkvæmdir í þessu máli. Í þeirri nefnd eru: B. Edwin Olson, Miss Margaret Björnsson, Tryggvi Oleson, Dr. Lárus Sigurðsson og J. W. Jóhannsson.

ÞRIÐJI FUNDUR

Þriðji fundur hins átjánda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var settur þriðjudaginn 23. febr. 1937, kl. 10 árdegis, af forseta félagsins.

Fundarbók var lesin.

Ásmundur P. Jóhannsson gerði þá athugasemd við fundarbókina, að ekki væri getið skýrslu fjármálanefndarinnar, sem hefði verið lögð fram undir fundarlok. — Fundarbókin var staðfest með því tilskildu, að þessu yrði bætt inn í hana.

**Skýrsla um minjasafnið**

Bergthór E. Johnson gaf skýrslu um minjasafnið:

Hafa þessir munir verið gefnir á árinu 1936:

C. J. Abrahamson, Sinclair, Man.:
Bildur
Saumaskrúfa
Horn spónn

Séra Sigurð Ólafsson, Árborg, Man.:
Skónál

Valdimar Gíslason, Wynyard, Sask.:
Kopar reizla
Signet
Brekán
Horn spónn

Jón Jónsson, Selkirk, Man.:
Beizlistangir

Jóhanna Bjarnadóttir, Selkirk, Man.:
Skautar

Mrs. Þórunn Anderson, Winnipeg, Man.:
Vöflujárn

Sagði hann, að munirnir væru sem stæði geymdir hjá sér, en ættu í framtíðinni að komast á fjöllistasafn Manitoba. Aðeins einn munur væri nú þegar kominn þangað, kvarnarsteinar. Á. P. Jóhannsson lagði til, að skýrslan væri viðtekin. Var það stutt og samþykt.

**Minnisvarðamál.**

Þá skýrði B. E. Johnson frá minnisvarðamálinu.

**Landnema minnisvarðinn á Gimli**
frá febr. 1936 til febr. 1937

| | | |
|---|---|---|
| Á banka febr. 1936 | | $ 56.26 |
| Sept. 1. 1936, borgað til Th. Borgfjörð | $ 28.60 | |
| Vextir á banka | | .76 |
| Í sjóði á banka | 28.42 | |
| | $ 57.02 | $ 57.02 |

**Álit útgáfumálanefndar.**

Nefndin leggur til að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Útgáfu Tímarits Þjóðræknisfélagsins verði haldið áfram með svipuðu sniði og verið hefir og stjórnarnefndinni sé falið að annast um útgáfu þess.

2. Stjórnarnefndinni sé falið, að ljúka við prentun á hinni merku ritgerð dr. Ragnar Lundborgs í ritinu næsta ár.

3. Útgáfu barnablaðsins "Baldursbrá" sé haldið áfram, telji stjórnarnefndin það fært.

4. Þingið vottar ritstjórum nefndra rita og öðrum starfsmönnum við þau þakklæti fyrir vel unnið starf.

Á Þjóðræknisþingi 23. febr. 1937.

Richard Beck
B. E. Johnson
K. Indriðason
S. W. Melsted
Þorst. Gíslason
Fred Swanson

Á. P. Jóhannsson lagði til, að álitið væri tekið fyrir lið fyrir lið. Tillagan var studd af Mrs. M. Byron og samþykt.

Fyrsti liður var lesinn og samþyktur.

Um annan lið urðu miklar umræður, og tóku þátt í þeim dr. Richard Beck, Guðm. Eyford, Á. P. Jóhannsson, Hjálmar Gíslason, Guðm. Árnason, Sigm. Laxdal og forsetinn. Á. P. Jóhannsson lagði til, að liðurinn væri feldur burt, og Thorst. Gíslason studdi. Tillagan var feld með 20 atkv. gegn 14. Tillaga G. Árnasonar og H. Gíslasonar, að samþykkja liðinn var samþykt.

Á. P. Jóhannsson lagið til og B. E. Johnson studdi ,að þriðji liður væri samþyktur, eftir að orðalagi hans hafði dálítið verið breytt. Tillagan var samþykt.

Fjórði liður var samþyktur eftir tillögu Á. P. Jóhannssonar og S. Vilhjálmssonar.

Þá gerði dr. Beck tillögu um að samþýkkja nefndarálitið í heild sinni. Tillagan var studd af Margrétu Byron og samþykt.

G. Árnason og B. E. Johnson gerðu tillögu um að fresta fundi til kl. tvö. Tillagan samþykt.

Fundi slitið.

## FJÓRÐI FUNDUR

Fjórði fundur hins átjánda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var settur af forseta kl. tvö síðdegis þriðjudaginn 23. febr. 1937.

Fundarbók var lesin og staðfest.

Þá var álit fræðslumálanefndarinnar lagt fram og lesið af Thorl. Thorfinnssyni.

### Fræðslumál.

Nefndin sem skipuð var til þess að athuga fræðslumál Þjóðræknisfélagsins, leggur til:

1. Að haldið sé áfram að stuðla að kenslu í íslenzkri tungu, og íslenzkum fræðum, á líkan hátt og að undanförnu.

2. Að tilraun sé gerð til þess að vekja áhuga og umhugsun æskulýðsins í Winnipeg og nærliggjandi bygðum (sem af íslenzkum stofni er sprottinn) á ættlandi sínu og ættararfi, með því að fá, ef unt er, hæfa unga íslenzka menn, eða meyjar, til að ferðast um og flytja erindi um þjóðernisleg efni á meðal hans og með litmyndum að skýra og skerpa skilning æsku fólks, sem fætt er í þessari álfu, á landi og lifnaðarhtátum þjóðarinnar.

3. Það eð knýjandi þörf virðist vera ríkjandi á meðal menta- og námsfólks í Vesturheimi að eigi kost á að nema mál feðra sinna og kynnast íslenzkum bókmentum, betur og meira en það hefir átt kost á. Þá leggjum við til, að væntanlegri framkvæmdarnefnd sé falið að athuga hvort ekki séu tök á að námsskeið sé stofnað undir umsjón Þjóðræknisfélagsins til að fullnægja þeirri þörf, og ef tiltækilegt virðist, þá að sjá um að slíkt námsskeið sé stofnað eins fljótt og unt er.

4. Að þingið þakki öllum þeim, er stutt hafa að fræðslumálunum í Winnipeg og annarstaðar.

Th. Thorfinnsson
J. J. Bíldfell
Mrs. B. E. Johnson

Guðm. Árnason lagði til og Philip Johnson studdi, að álitið væri tekið fyrir lið fyrir lið. Samþykt.

Fyrsti liður var samþyktur samkvæmt tillögu frá J. B. Johnson og Thorst. Gíslasyni.

Annar ligur. Á Eggertson og S. Vilhjálmsson gerðu tillögu um að samþykkja hann. G. Árnason og B. E. Johnson bentu á, að réttast mundi vera, að vísa þessum lið til fjármálanefndar. J. J. Bíldfell gaf skýringar við liðinn. Thorl. Thorfinnsson tók einnig til máls um hann. Breytingartillaga B. E. Johnsons og Mrs. M. Byron, að vísa liðnum til fjármálanefndar. Samþykt.

Þriðji liður. Tillaga J. J. Bíldfells og Sigm. Laxdals, að vísa þessum lið til fjármálanefndar. Umræður: Á. P. Jóhannsson. Tillagan samþykt.

Fjórði liður samþyktur eftir tillögu J. J. Bíldfells og Á. P. Jóhannssonar, á þann hátt, að menn risu úr sætum.

**Útbreiðslumál.**

B. E. Johnson las álit nefndarinnar í útbreiðslumálinu.

**Nefndarálit.**

Nefndin álítur að útbreiðslumálið sé eitt aðal mál Þjóðræknisfélagsins og leggur til:

1. A. Að stjórnarnefndin geri gangskör að því eða styðji að stofnun deildar yngra fólks í Winnipeg, þar sem leyfilegt sé að nota enska tungu við fundarhöld, og ef sú tilraun hepnast þá séu einnig samskonar tilraunir gerðar út um bygðir.

B. Nefndin leggur til að nefnd sú er yngra fólkið kaus í þessu máli í gærkvöldi sé beðin að vera milliþinganefnd í þessu máli.

2. Að stjórnarnefndinni sé falið á hendur að hafa tal af lestrarfélögum í þeim bygðum og bæjum þar sem engar deildir eru, með það í huga að þau lestrarfélög gerist deildir í aðalfélaginu.

3. Að þar sem stjórnarnefndin álítur þörf eða nauðsyn til útbreiðslumála þá sé henni heimilað að verja fé til slíks eftir kringumstæðum.

4. Að þingið votti þeim mönnum úr stjórnarnefndinni er hafa unnið að útbreiðslumálum með ræðuhöldum, þakkir fyrir það starf og einnig íslenzku vikublöðunum sem altaf vinna að útbreiðslumálum meðal Íslendinga.

Thorst. J. Gíslason
Bergthór Emil Johnson
Björn Eðvald Olson
Páll Guðmundsson
Philip M. Pétursson
Th. S. Thorsteinsson

Tillaga J. J. Bíldfells og Thorl. Thorfinnssonar, að taka nefndarálitið fyrir lið fyrir lið samþykt.

Fyrsti liður, A grein. Umræður: J. J. Bíldfell. Tillaga Thorl. Thorfinnssonar og Philips Johnsons að samþykkja. Samþykt. B. grein. Tillaga S. Vilhjálmssonar, studd af mörgum, að samþykkja. Samþykt.

Annar liður. Umræður: B. E. Johnson, Sigm. Laxdal, J. J. Bíldfell. Tillaga Á. Eggertssonar og Mrs. Byron að samþékkja. Samþykt

Þriðji liður. Umræður: B. E. Johnson og J. J. Bíldfell. Tillaga S. Vilhjálmssonar og Ph. Johnson að samþykkja. Samþykt.

Fjórði liður. Tillaga Á. Eggertssonar og Mrs. Byron að samþykkja. Samþykt

**Bókasafnsmál.**

Nefndarálitið í bókasafnsmálinu var lesið af Davíð Björnssyni.

Nefndin sem skipuð var í bókasafnsmálið leggur til:

1. Að bókasafn Þjóðræknisfélagsins sé áfram undir umsjón deildarinnar "Frón", þar sem hún hefir komið safninu í ágætt horf og fjölgað margfaldlega bókum félagsins, bæði með nýjum bókakaupum og heilum söfnum, sem gefin hafa verið til félagsins.

2. Með því að bókasafninu hefir borist fleiri eintök af sömu bókinni, leggur nefndin til að samin verði skrá yfir þær bækur og þeim útbýtt til annara lestrarfélaga innan Þjóðræknisfélagsins, ef þau æskja eftir því.

3. Nefndin álítur að heldur lítið af nýjum bókum bætist í safnið árlega og leggur því til að Þjóðræknisfélagið leggi fram dollar á móti dollar móti deildinni "Frón" til bókakaupa á yfirstandandi ári.

4. Nefndin getur varla gengið svo frá þessari skýrslu að hún votti ekki þakklæti sitt til bæði stjórnarnefndar "Fróns" og bókaverði fyrir þeirra ágæta starf í þarfir bókasafnsins á síðastliðnu ári.

Á Þjóðræknisþinginu 23. febr. 1937.

Ó. Pétursson
Sigurrós Vídal
Davíð Björnsson

Tillaga Á. Eggertsonar og G. Árnasonar, að taka álitið lið fyrir lið. Samþ.

Fyrsti liður. Tillaga Á. Eggertsonar og B. E. Johnsons, að samþykkja. Samþykt.

Annar liður. Umræður: Á. Eggertson og Ól Pétursson. Liðurinn samþyktur samkvæmt tillögu Ph. Johnsons og S. Vilhjálmssonar með þeirri breytingu, að bætt

sé inn í hann orðunum: "innan Þjóðræknisfélagsins" á eftir orðinu "lestrarfélaga".

Þriðji liður. Uppástunga Á. Eggertsonar, studd af Thorl. Thorfinnssyni, að vísa liðnum til fjármálanefndarinnar. — Samþykt.

Fjórði liður. Umræður: S. Vilhjálmsson. G. Árnason lagði til að vísa liðnum aftur til nefndar. Stutt af B. Finnssyni Ól. Pétursson, sem var einn af nefndarmönnum lagði til að liðurinn væri feldur burt. Sá tillaga var studd af S. Vídal. Frekari umræður urðu um liðinn og tóku þátt í þeim Sigm. Laxdal og Ásm. P. Jóhannsson, sem skýrði frá því sem hann hefði gert í þessu máli. Tillaga Ól. Péturssonar og S. Vídal samþykt.

Fimti liður samþyktur eftir tillögu S. Laxdals og G. Goodmans.

### Minjasafnsmál.

Nefndarálit var lesið af B. E. Johnson.

Nefndin álítur að þetta sé eitt af nauðsynja fyrirtækjum Þjóðræknisfélagsins og leggur hún því til:

1. Að umgetningar um safnið séu af og til birtar í íslenzku blöðunum, svo almenningur hafi vitneskju um málið og geti því frekar safnað og sent muni í safnið.

2. Að strax og stjórnarnefnd félagsins álítur að vísir safnsins sé orðinn nægilega stór þá sé safninu komið fyrir á fjöllistasafni Winnipeg og opnað fyrir almenning.

3. Að stjórnarnefnd félagsins sé falin umsjón og framkvæmdir þessa máls á komandi ári.

Bergthór Emil Johnson
G. G. Goodman
Friðrik Sveinsson.

Tillaga J. J. Bíldfells og St. Jóhannssonar að nefndarálitið væri samþykt í heild sinni, eins og það var lesið. Tillagan samþykt.

Þá hóf Árni Eggertson máls á því, að viðeigandi væri, að nafnaskráningarbók væri haldin yfir þingtímann, svo að bæði fulltrúum, félagsmönnum og gestum, sem stöðugt sætu á þinginu gæfist kostur á að rita nöfn sín í hana. Sagði hann, að bending til sín í þessa átt hefði komið frá hr. Sveini Thorvaldssyni. Forsetinn gat þess, að áður hefði þetta verið gert, en að siðurinn hefði lagst niður. Sveinn Thorvaldson tók til máls og hvatti til að þetta væri gert. G. Árnason lagði til, að féhirði félagsins væri falið, að kaupa skrásetningabók nú þegar og hafa hana til taks í byrjun næsta fundar. Tillagan var studd af B. E. Johnson og samþykt.

### Samvinnumál.

Dr. Richard Beck las nefndarálitið í samvinnumálinu. Í sambandi við þetta nefndarálit voru lesin bréf frá ungfrú Halldóru Bjarnadóttur á Íslandi, frú Ingibjörgu Ólafsson í Árborg, frú Kirstínu Ólafsson að Garðar, N. Dak., formanni Norræna félagsins á Íslandi og Ragnari E. Kvaran, formanni ferðamannaskrifstofu Íslands.

### Álit samvinnumálanefndar

Samvinnumálanefnd leyfir sér, að gefa eftirfarandi tillögur:

1. A. Viðvíkjandi tilmælum fröken Halldóru Bjarnadóttur um stuðning frá Þjóðræknisfélaginu til væntanlegrar ferðar hennar vestur um haf, fyrirlestrahalda og sýninga á íslenzkum iðnaði, leggur nefndin til, að Þjóðræknisfélagið greiði á allan hátt götu hennar, eftir megni, og eigi um það samvinnu við kvenfélög beggja íslenzku kirkjufélaganna hér, Jóns Sigurðssonar félagið og heimilisiðnaðar félag íslenzkra kvenna vestan hafs.

B. Ennfremur leggur nefndin til, að á þessu þingi séu kosnar tvær konur til að vinna að þessu máli fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins í samvinnu við nefndir frá fyrnefndum félögum.

C. Að tilgreind nefnd Þjóðræknisfélagsins starfi í samráði við stjórnarnefnd þess að ráðstöfun á komu fröken Halldóru og fyrirlestraferðum hennar hér.

2. Nefndin telur sig hlynta hugmyndinni um skifti á íslenzkum og vestur-íslenzkum unglingum til sumardvalar, sem rædd hefir verið í fyrirliggjandi bréfum milli séra Jakobs Jónssonar og Guðlaugs Rósinkranz, formanns Norræna félagsins

í Reykjavík. En þar sem um mikinn undirbúning og fjárhagslegan tilkostnað er að ræða, sér nefndin sér ekki fært annað, en að vísa málinu til stjórnarnefndar félagsins til frekari ráðstafana, ef mögulegt er.

3. Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið áframhaldandi starf í samvinnumálum, sem að viðskiftum lúta, milli Íslands og Ameríku.

4. Í tilefni af beiðni ferðamanna og landkynningarskrifstofu Íslands (Stat-Tourist) um aðstoð Þjóðræknisfélagsins við, að vekja athygli á skrifstofunni og umboðsmönnum hennar, leggur nefndin til að stjórnarnefndinni sé falið að veita skrifstofunni allan þann stuðning, sem föng eru á.

Á Þjóðræknisþingi, 23. febr. 1937.

Richard Beck
Guðm. Árnason
S. W. Melsted
Á. P. Jóhannsson

Tillaga G. Árnasonar að taka nefndarálitið fyrir lið fyrir lið, studd af G. Goodman og samþykt.

Fyrsti liður. Umræður: Mrs. Dr. S. E. Björnsson kvaðst enn ekki hafa haft tíma til þess að bera þetta mál undir stjórnarnefnd kvenfélagsambands hins sameinaða kirkjufélags, en að þær konur úr kvenfélögunum, sem hún hefði átt tal við, væru því allar hlyntar. Mrs. Guðrún H. Johnson sagðist álíta ,að vel ætti við að Jóns Sigurðssonar félaginu væri boðið að vera þátttakandi í þessari fyrirhuguðu móttöku ungfrú Halldóru Bjarnadóttur. Forseti Jóns Sigurðssonar félagsins, Mrs. Guðrún Skaptason tjáði sig því meðmælta fyrir hönd félagsins, að það væri með í þessu. Í sama streng tóku Mrs. Sophía Wathne, fyrir hönd heimilisiðnaðarfélagsins; Mrs. Finnur Johnson, fyrir hönd sama félags, og Mrs. dr. Ól. Stephensen fyrir hönd hins lútherska kvenfélags.

G. Árnason og S. Vilhjálmsson lögðu til að liðurinn væri samþyktur. Samþykt.

Annar liður. Thorst. Gíslason og Sigm. Laxdal lögðu til að samþykkja. Samþykt.

Þriðji liður. Tillaga Sigm. Laxdals og G. Goodmans að samþykkja. Samþykt.

Fjórði liður. Umræður: J. J. Bíldfell, G. Árnason, Sigm. Laxdal, Mrs. Guðr. Skaptason og Sig. Melsteð. Tillaga S. Vilhjálmssonar og Ph. Johnsons, að samþykkja. Samþykt.

Þá fór fram kosning tveggja kvenna í nefnd samkvæmt annari grein í fyrsta lið í nefndarálitinu, og hlutu kosningu Mrs. B. E. Johnson og Mrs. Guðrún Finnsdóttir Johnson.

Féhirðir skýrði frá, að nafnaskráningarbókin væri komin. Tillaga G. Árnasonar og B. E. Johnson að gefa stutt fundarhlé, svo að menn gætu ritað nöfn sín í bókina, og að svo yrði fundi frestað til kl. 10 næsta dag. Samþykt.

Friðrik Sveinsson og Á. Eggertson voru kosnir til að hafa eftirlit með nafnaskránni.

Fundi slitið.

**Frónsmót.**

Að kvöldi þess 23. var hin árlega skemtisamkoma deildarinnar "Frón" haldin. Var einkar vel til samkomunnar vandað. Aðgangur var seldur, en svo var mikill mannfjöldinn, að tugir fólks urðu frá að hverfa. Aðal ræðumaður samkomunnar var Mr. Gunnar B. Björnsson frá Minneapolis, og var hin ágæta ræða hans prentuð í blöðunum. Þá gaf dr. Rögnv. Pétursson fróðlegar og skemtilegar lýsingar eftir upphleyptu Íslandskorti, er Mr. Soffanias Thorkelsson hafði lánað. Forseti deildarinnar, Ragnar H. Ragnar, hélt skörulega inngangsræðu, ennfremur stýrði hann þar karlakór og barnasöngflokk, er vakti mikla hrifningu. Snildarkvæði frumsamið flutti ritstjóri Lögbergs, E. J. Jónsson, og frú Sigríður Olson söng einsöngva öllum til óblandinnar ánægju. Þá flutti og Lúðvík Kristjánsson frumsamin gamankvæði að vanda. Eftir það fóru fram veitingar í neðri salnum, og svo var dansað langt fram á nótt.

FIMTI FUNDUR

Fimti fundur hins átjánda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var settur af forseta kl. 10 árdegis miðvikudaginn þann 24. febr.

Fundarbók var lesin og samþykt.

Forsetinn mintist með nokkrum orðum á samkomu deildarinnar Frón. Lauk hann lofsorði á skemtun þá, sem þar hefði farið fram og einkum á ræðu þá, sem Gunnar Björnsson hafði flutt þar. Tillaga Thorl. Thorfinnssonar, studd af mörgum, að félagið tjái bæði stjórnarnefnd deildarinnar Frón og Gunnari Björnssyni þakklæti sitt. Tillagan var samþykt með því að menn risu úr sætum.

Þá bað Ásm. P. Jóhannsson sér hljóðs og talaði um starf fjármálanefndarinnar á þinginu.

B. E. Johnson las tvö álit fjármálanefndar út af nefndarálitum, sem hafði verið vísað til hennar; var annað í sambandi við álit fræðslumálanefndar, en hitt í sambandi við bókasafnsmálið. Umræður: J. J. Bíldfell, sem talaði um verksvið fjármálanefndarinnar. Tillaga Thorl. Thorfinnssonar og G. Goodmans, að samþykkja tillögu fjármálanefndar viðvíkjandi skýrslu fræðslumálanefndar. Samþykt.

**Álit fjármálanefndar í fræðslumálum**

2. liður: Fjármálanefndin lítur svo á, að þó myndasýningar séu fræðandi, þá sé ekki heppilegt að leggja í kostnað við slíkar sýningar sem stendur, fyrir yngra fólk, sérstaklega þar sem nú er útlit fyrir að í náinni tíð verði stofnaðar deildir meðal yngra fólks. Álítur nefndin heppilegra að bíða árangursins af því starfi, og leggur því til að þessum lið sé vísað til framkvæmdarnefndar til meðferðar.

3. liður: Við þennan lið hefir nefndin ekkert að athuga.

Á. P. Jóhannsson
B. E. Johnson
P. M. Pétursson

Viðvíkjandi tillögum fjármálanefndar í bókasafnsmálinu lögðu þeir Á. P. Jóhannsson og R. Beck til, að nefndarálitið væri tekið fyrir lið fyrir lið. Tillagan samþykt.

**Álit fjármálanefndar í bókasafnsmáli**

3. liður: Fjármálanefndin álítur að þessi liður geti ekki komið til greina þar sem hann kemur í bága við samninga milli Fróns og aðalfélagsins, þess efnis, að deildin annist safnið fjárhagslega. Í öðru lagi er það álit nefndarinnar að þar sem þetta er nú aðal starf deildarinnar utan fundarhalda þá ætti hún að geta séð safninu borgið. Leggur því nefndin til að þessi liður sé feldur úr álitinu.

Hinsvegar leggur nefndin til að deildinni sé leyft eins og að undanförnu að nota sér það sem inn kemur fyrir sölu Tímaritsins á Íslandi til bókakaupa.

Á. P. Jóhannsson
B. E. Johnson
P. M. Pétursson

Thorl. Thorfinnsson og P. Guðmundsson lögðu til að samþykkja fyrri lið nefndarálitsins. Samþykt.

Síðari liður. G. Árnason gerði fyrirspurn um, hvort nokkur arður hefði verið af sölu ritsins á Íslandi síðastliðið ár. Á. P. Jóhannsson svaraði því að síðasta skilagrein frá útsölumanni ritsins þar hefði komið 1935, en sér væri ekki kunnugt um, hvað mikið hefði selst síðan. Guðmann Levy og P. Guðmundsson lögðu til, að samþykkja liðinn. Samþykt. Nefndarálitið síðan samþykt í heild sinni, samkvæmt framkominni tillögu Á. P. Jóhannssonar og P. Guðmundssonar.

**Ný mál.**

Ásm. P. Jóhannsson las bréf, sem hann hafði ritað íslenzku ráðherrunum viðvíkjandi því hvort að bókasafn Þjóðræknisfélagsins gæti komist í tölu þeirra bókasafna, sem fá ókeypis eintak af hverri bók, sem gefin er út á Íslandi. Sagði hann, að bréf þetta hefði átt að lesast, þegar málið var til umræðu, en þá hefði hann ekki haft það við hendina. Enginn verulegur árangur, sagði hann, að enn hefði orðið af þessari málaleitun.

Þá las hann og nokkur bréf, sem farið höfðu milli hans annars vegar og söngstjóra og ritara karlakórs Reykjavíkur hins vegar, viðvíkjandi ráðgerðri för kórsins til Ameríku. Sagði hann, að þessi ráðagerð væri á byrjunarstigi og gaf skýringar yfir þær upplýsingar, sem hann hefði fengið hér fyrir hönd kórsins og sent til hlutaðeigenda. Dr. R. Beck sagðist hafa haft nokkur kynni af þessu máli, og kvað sig reiðubúinn til þess að greiða

fyrir því alt, sem í sínu valdi stæði. G. Árnason sagði og nokkur orð um þetta mál og kynni Austur- og Vestur-Íslendinga hverra af öðrum. Thorl. Thorfinnsson lagði til, að þingið tjái Á. P. Jóhannssyni þakkir fyrir það, sem hann hefir gert í þessu máli, og óski eftir, að sem fyrst geti orðið af þessari fyrirhuguðu ferð kórsins. Tillagan var studd af R. Beck og samþykt í einu hljóði.

Thorst. Thorsteinsson las skýrslu frá Hockey-deild íþróttafélagsins "Fálkarnir" (The Falcon Athletic Association), og Grettir Jóhannsson las bréf frá ritara félagsins, sem var þess efnis, að félagið segir sig úr lögum við Þjóðræknisfélagið sem sambandsfélag þess. G. Árnason og Á. P. Jóhannsson lögðu til, að skýrslan og úrsögnin væru viðteknar. Samþykt.

Íþróttanefnd sú er var kosin á þessu þingi álítur að Hockey-samkepnin sé mjög heppileg uppörfun í íþróttum fyrir íslenzkan ungdóm og álítur nauðsynlegt að halda þeirri samkepni áfram.

Og þótt Winnipeg Íslendingar sjái sér ekki fært að taka þátt í samkepninni í ár, þá vonast nefndin eftir því að þeir geri það í framtíðinni.

Nefndin álítur að þrátt fyrir það, þá muni vera hægt að fá nógu marga flokka utanbæjar til að halda samkepninni áfram í vetur.

Nefndin álítur að Þjóðræknisfélagið geti ekki stuðlað að öðrum leikfimis æfingum sökum óhjákvæmilegra peninga útláta.

Grettir Jóhannsson<br>
Th. S. Thorsteinsson<br>
Thor Pétursson

**Millenial Hockey Trophy Fund**

| | | |
|---|---|---|
| 1935—36 Balance | | $ 13.53 |
| Rep. Trophy and Name plate | $ 7.00 | |
| Printing passes | 1.00 | |
| Referee fees, Mr. Skinner | 6.00 | |
| Telephone, postage, etc. | 1.50 | |
| 2 Trips to Gimli, expenses | 5.00 | |
| Adv. in Falcon publication | 3.00 | |
| Gross receipts 2 nights at Selkirk | 47.85 | |
| Net receipts | | 23.95 |
| Net balance | 13.98 | |
| | $ 37.48 | $ 37.48 |

A. Blondal<br>
Th. S. Thorsteinsson

**Skýrsla Hockey-nefndar fyrir 1936**

Hockey-samkepni um bikar Þjóðræknisfélagsins, var háð í marz í fyrra í Selkirk. Sex flokkar tóku þátt í þeirri samkepni, fjórir frá Winnipeg, einn frá Gimli og einn frá Selkirk. Selkirk flokkurinn vann sigur í þeirri samkepni.

Þessi samkepni fór prýðilega vel fram, og öllum flokkum til mikils sóma. Við þeim sem aðstoðuðu við þessa samkepni, sem nefndarmenn viljum þakka öllum sérstaklega Mr. B. Kelly í Selkirk, Man., sem hefir góðfúslega aðstoðað nefndina s. l. 2 ár endurgjaldslaust og einnig þökkum vér Íslendingum í Selkirk sem hjálpuðu til þess að þátttakendur í samkepninni fengu frían dans og fríar veitingar seinna kveldið sem samkepnin fór fram. Bikar var afhentur sigurvegurunum.

Th. S. Thorsteinsson<br>
A. Blondal

The Icelandic National League,<br>
Gentlemen:

The executive of the Falcon Athletic Association hereby give notice that they wish to resign from the membership of the Icelandic National League on account of being unable to pay the necessary membership fee.

Thanking you,<br>
Falcon Athletic Association,<br>
Geir Thorgeirson, secretary

G. Árnason og Dr. Beck lögðu til að þriggja manna milliþinganefnd væri kosin til þess að hafa eftirlit, ef með þyrfti, með Hockey-samkepni um bikar Þjóðræknisfélagsins. Tillagan samþykt. Í nefndina voru kosnir: Grettir Jóhannsson, Thorst. Thorsteinsson og B. Edwin Olson.

G. Árnason skilaði kveðjum frá tveimur félagsmönnum, sem ekki gátu sótt þingið í þetta sinn, þeim Andrési J. Skagfeld á Oak Point og Jónasi K. Jónassyni að Vogar. Guðm. Levy lagði til, að þingið veitti kveðjum þessum móttöku og að þær væru bókfærðar,. Tillagan var studd af Ph. Johnson og samþykt.

Á Eggertson vakti athygli á því, að eins og að undanförnu mundi verða beðið um

samskot í rithöfundasjóð, og mæltist hann til þess, að þeir, sem nú væru hér staddir, og vildu í sjóðinn leggja gæfu sig fram við einhvern nefndarmanna.

Samþykt var að fresta fundi til kl. 1 og 45 mín.

Fundi slitið.

## SJÖTTI FUNDUR

Sjötti fundur hins átjánda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var settur kl. 1.45 mín. miðvikudaginn 24. febr.

Fundarbók var lesin og staðfest.

Forseti gat þess, að samkvæmt lögum félagsins ættu embættismanna kosningar nú að fara fram, nema að önnur störf, sem ganga þyrftu fyrir, væru fyrir hendi.

Miss Sigurrós Vídal lagði til, að gengið væri strax til kosninga. Tillagan var studd af P. Guðmundssyni og samþykt.

Forseti las upp lista þann, sem lagður hafði verið fram af útnefningarnefnd.

Tillaga útnefningarnefndar Þjóðræknisfélagsins fyrir embættismenn á komandi ári:

Forseti: Dr. R. Pétursson
Vara-forseti: Dr. R. Beck
Ritari: Gísli Johnson
Vara-ritari: B. E. Johnson
Gjaldkeri: Árni Eggertson
Vara-gjaldkeri: Á. P. Jóhannsson
Fjármálaritari: Guðmann Levy
Vara-fjármálaritari: B. E. Olson
Skjalavörður: S. W. Melsted.

Winnipeg 23. febr. 1937.

Útnefningarnefndin.

Á. P. Jóhannsson gat þess, að þó að útnefningarnefndin nefndi mann í hvert embætti, væri hverjum og einum heimilt að útnefna hverja aðra sem hann vildi. Um þetta urðu nokkrar umræður. J. J. Bíldfell tjáði sig á móti því að útnefninganefnd nefndi í embættin, og kvað þá, sem útnefndir kynnu að verða af öðrum, naumast hafa jöfn tækifæri á að komast í embætti.

Var þá gengið til kosninga og voru eftirfylgjandi menn kosnir samkvæmt tillögum útnefningarnefndar. Ritari lýsti kjöri jafnóðum og kosið var.

Forseti: Dr. Rögnv. Pétursson, endurk.
Vara-forseti: Dr. Richard Beck, endurk.
Ritari: Gísli Jónsson, endurk.
Vara-ritari: B. E. Johnson, endurk.
Gjaldkeri: Á. Eggertson, endurk.
Vara-gjaldkeri: Ásm. P. Jóhannsson
Fjármálaritari: Guðmann Levy, endurk.
Vara-fjármálaritari: B. E. Olson
Skjalavörður: Sig. Melsteð, endurk.

Annar endurskoðandi reikninga til tveggja ára var kosinn Grettir Jóhannsson. Útnefningarnefnd til næsta árs var kosin, og hlutu þessir kosningu: Gunnbj. Stefánsson, J. W. Jóhannsson og Ragnar H. Ragnar.

Forseti gat fráfarandi embættismanna, séra Philips M. Péturssonar og J. W. Jóhannssonar, og lauk lofsorði á starf þeirra í stjórnarnefnd félagsins á liðnu ári. Tillaga Dr. Becks og Ph. Johnsons að þeim væri greitt þakklætisatkvæði fyrir störf þeirra í þágu félagsins. Samþykt með því að menn risu úr sætum.

Forseti gat þess, að séra Sigurður Ólafsson hefði mál að flytja fyrir þinginu, og bauð honum að taka til máls. Séra Sigurður sagði, að sér hefði komið til hugar, að hreyfa því, hvort félagið vildi ekki gangast fyrir því að safnað yrði meðal Vestur-Íslendinga sögnum, sem bygðar væru á reynslu þeirra, bæði sálrænni og annari, og skýrðu frá atburðumsem gerst hefðu bæði á Íslandi og hér vestan hafs. Benti hann á kapp það, sem nú væri lagt á söfnun þjóðsagna og sagna af óvenjulegum atburðum heima á ættjörðinni. Sagði, að margt merkilegt af því tæi lifði eflaust í minni ýmsra Íslendinga hér.

Forsetinn mælti nokkur orð með hugmyndinni. Dr. Beck sagðist vilja ljá þessu eindregið fylgi sitt. Árni Eggertson sagði að í reynslu Íslendinga hér frá fyrri árum væru fjölda mörg atvik, sem þess væru verð, að geymast í sögnum. Forsetinn mintist á minningar Jóns Jónssonar, sem birzt hefðu í ársriti félagsins bæði í fyrra og í ár, og taldi þær spor í áttina. Jón J. Bíldfell talaði og um þetta mál og mintist um leið á samkomu deildarinnar Frón, og lauk miklu lofsorði á starf Ragnars H. Ragnars í sambandi við hana.

G. Árnason lagði til, að þriggja manna nefnd væri kosin til þess að hafa mál það, sem séra Sig. Ólafsson hefði hafið umræður um, með höndum til næsta þings. Tillagan var studd af Ph. Johnson og samþykt. Í nefndina voru kosnir: Sig. Ólafsson, G. Árnason og J. J. Bíldfell.

G. Árnason talaði nokkur orð um rithöfundasjóðinn og hvatti menn til þess að leggja eitthvað af mörkum í hann.

Nikulás Ottenson gerði fyrirspurnir um "Ingólfssjóðinn" og "Selskinnu". Forseti svaraði spurningum hans á þá leið, að fyrra atriðið hefði verið leitt til lykta á þingi fyrir fimm árum, og að umræður um það yrðu ekki leyfðar; en frá hinu síðara hefði verið skýrt fyrir tveimur árum, og væri engu þar hægt við að bæta nú.

Ásm. P. Jóhannsson talaði um auglýsingarnar í ársriti félagsins; hvatti hann meðlimi tli þess, að láta þess getið að þeir hefðu lesið auglýsingu í ritinu, er þeir ættu viðskifti við einhvern þann, sem auglýsir þar. J. J. Bíldfell og Á. Eggertson töluðu líka nokkur orð um þetta mál. Var getið nafna allmargra þeirra, sem lengi hafa auglýst í ritinu, og sömuleiðis ýmsra þeirra vandkvæða, sem eru á auglýsingasöfnun í rit af þessu tæi.

Þar sem ekki lá fleira fyrir fundinum, lagði B. E. Johnson til og Margrét Byron studdi ,að fresta fundi til kl. 8.15. Samþykt.

Fundi slitið.

## SJÖUNDI FUNDUR

Sjöundi fundur var settur af forseta kl. 8.20 miðvikudagskvöld þann 24. febr.

Forseti gat þess, að ræðuhöld og aðrar skemtanir færu fram áður en þinginu yrði slitið. Kallaði hann þar næst á séra Egil Fáfnis, sem flutti ágætt erindi um félagslega samvinnu meðal Vestur-Íslendinga. Að því loknu lék master Allan Halldórsson á píanó. Mr. Tryggvi Oleson flutti fróðlegan og skemtilegan fyrirlestur um Sverri konung, og karlakórinn söng fjögur lög undir stjórn Ragnars H. Ragnars. Urðu þeir að endurtaka lögin, og var fögnuður áheyrenda yfir söngnum mjög mikill. G. Árnason las tvö erindi í ljóðum eftir Jónas K. Jónasson, sem hann hafði sent. Mr. Soffanias Thorkellsson lét draga um rúmábreiðu forkunnar fagra, sem Mrs. Ingibjörg Goodmundsson hafði búið til og gefið deildinni Frón. Lýsti hann því yfir, að allur ágóði af sölu miðanna, rúmir áttatíu dollarar, yrði notaður til þess að kaupa íslenzkar bækur fyrir bókasafn deildarinnar. Dr. Beck flutti kveðju frá Íslendingafélaginu "Vísi" í Chicago og frá forseta ríkisháskólans í Grand Forks, N. D. Forseti gat þess, að annar íslenzki fáninn ,sem salurinn hefði verið skreyttur með meðan á þinginu stóð, væri gjöf til Þjóðræknisfélagsins frá aldraðri, íslenzkri konu; hafi henni verið sendur fáninn að gjöf frá Íslandi.

Þá nefndi forsetinn ritara félagsins, Gísla Jónsson, til þess að bera fram tillögu stjórnarnefndarinnar um heiðursfélaga, nefndi ritarinn eftirfylgjandi konu og menn, sem þá, er stjórnarnefndin hefði í þetta sinn komið sér saman um að heiðra: frú Jakobínu Johnson, skáldkonu í Seattle ,Wash.; hr. Guttorm J. Guttormsson, skáld í Riverton, Man.; og Þorstein Þorsteinsson, skáld í Reykjavík á Íslandi. Dr. Beck mælti nokkur orð með tillögunni og var hún samþykt með því að allir viðstaddir risu úr sætum.

Thorl. Thorfinnsson mælti nokkrum þakkarorðum fyrir hönd þeirra, sem þingið höfðu sótt frá Norður-Dakota, fyrir rausnarlegar viðtökur; sömuleiðis Guðmundur Goodman frá Wynyard, sem þakkaði fyrir viðtökur og samvinnu.

Þá gat forseti þess, að utanbæjar-gestum og fulltrúum væri, eins og venjulega, boðið til kaffidrykkju þetta síðasta þingkvöld í neðri sal hússins; sagði hann, að söngflokkurinn hefði góðfúslega lofað, að syngja þar aftur nokkur lög.

Á. Eggertson og Ph. Johnson lögðu til, að stjórnarnefndinni væri veitt leyfi til þess, að samþykkja síðasta fundargerning, eftir að hann væri fullgerður. Tillagan var samþykt.

Mælti þá forsetinn blessunarorðin og lýsti þinginu slitið.

**Rögnv. Pétursson, forseti**

**Gísli Jónsson, ritari**

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

# Bókasafn Þjóðræknisfélagsins

Íslendingar, þér, sem eigið safn af íslenzkum eða skandinaviskum bókum, er þér annaðhvort eigi hafið lengur not af eða þér viljið koma fyrir á þeim stað, sem þær geta komið að notum, munið eftir bókasafni Þjóðræknisfélagsins. Safnið tekur með þökkum á móti öllum bókagjöfum stórum eða smáum. Lestrarfélög, sem einhverra orsaka vegna eru að leggjast niður gætu á engan hátt betur ráðstafað bókasöfnum sínum en gefa þau til Þjóðræknisfélagsins. Bækurnar verða varðveittar frá glötun og þeim ráðstafað, á þann hátt, sem þær geta komið að sem beztum notum, léðar háskólasöfnum, og þeim, sem eru að leggja fyrir sig að nema mál og sögu þjóðar vorrar eða hafðar á þeim stað þar sem öllum veitist frjáls aðgangur að þeim.

Þeir sem kynnu að vilja styrkja félagið á þenna hátt, eru beðnir að skrifa félagsstjórninni eða féhirði félagsins.

**A. Eggertson,**
766 Victor St., Winnipeg

**Prize, Utah**
Miss Rose Davidson

**Red Wing, Minn.**
M. A. Thorfinnsson

**Ross, Minn**
Grímur Ólafsson

**Rugby, N. Dak**
Hon. Guðm. Grímsson

**Sacramento, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Salt Lake City, Utah**
Próf. Loptur Bjarnason

**Spanish Fork, Utah**
Mrs. T. M. Jameson
Miss Ellen Jameson

**Tacoma, Wash.**
E. S. Guðmundsson
Dr. John A. Johnson, M.D.

**Twenty Nine Palms, Cal.**
Jóhannes Sveinsson

**Toppenish, Wash.**
I. Benedictson

**Upham, N. Dak.**
Mrs. George Freeman
Bergþóra Einarsson

**Seattle, Wash.**
B. J. Einarsson

**Wahpeton, N. Dak.**
Hjalti B. Thorfinnsson

**Grafton, N. D.**
Mrs. S. Eastman

**Eriksdale, Man.**
Kristján Halldórsson
Ólafur Hallsson

**Lundar, Man.**
Vigfús Guttormsson

**4. DEILDIR**

**A—"Brúin," Selkirk, Man.**
Jón Anderson
Miss Dóra Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Sveinbjörn Dalman
Mrs. Ásta Eiríksson
Grímur G. Eyman
Guðjón Friðriksson
Mrs. D. B. Goodbrandson
Kristinn Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Runólfur Halldórsson
Jón J. Henry
Mrs. Ingveldur J. Henry
E. J. Hinriksson
Sigurður Indriðason
Mrs. Guðrún Ísfeld
Miss Halldóra Jóhannesson
Olgeir Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
G. F. Jóhannsson
Ingi C. Jóhannsson
Mrs. Guðlaug Johnson
Magnús Johnson
Mrs. Margrét Johnson

Mrs. Sigurbjörg Johnson
Mrs. Valgerður Johnson
Mrs. Vigdís Johnson
Hinrik Jónsson
Klemens Jónasson
Einar Magnússon
Páll Magnússon
Mrs. Rakel Maxon
Miss Cecelia Mýrdal
Mrs. Ingibjörg Oddson
Jón Ólafsson
Mrs. Kristín J. Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Mrs. Ingibjörg Pálsson
Kristján Pálsson
Miss Pauline Pálsson
Jóhann Pétursson
Jón Th. Reykjalín
Jóhann Sigfússon
Árni Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Mrs. Stefanía Sigurðsson
Miss Elin Guðrun G. Sigurðsson
Jón O. S. Sigurðsson
Sr. B. Theo. Sigurðsson

Sveinn Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Þorleifur Skagfjörð
Jón Skardal
S. G. Stefánsson
Mrs. Helgi Sturlaugsson
Ágúst Sæmundsson
Oddur Swanson
Ingibjörg Thórdason
Theódór Thórdarson
Bjarni Thorsteinsson
Mrs. Björg Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
Walter Walterson, Sr.

**B—"Fjallkonan**

**Wynyard, Sask.**

S. S. Anderson
Þórður Árnason
B. Arngrímsson
J. Arngrímsson
Thor Ásgeirsson
H. J. Austfjörð
Dr. Kristján Austman,
S. Austman
Hallgrímur Axdal
Vigfús Baldvinsson
H. J. Bardal
Þórhallur Bardal
Mrs. Þ. Bardal
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigga Björnsson
Manni Dalman
Árni G. Eggertsson
Guðmundur Egilsson
Jens Elíasson
Kristinn Eyjólfsson
Mrs. Matth. Friðriksson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gísli Gilles
Jósep Gilles
Gunnluagur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Gunnlaugur Gíslason
Valdimar Gíslason
Guðmundur Goodman
C. H. Grímsson
H. Guðjónsson

Finnbogi Guðmundsson
G. F. Guðmundsson
Gunnar Guðmundsson
Steindór Gunnlaugsson
Þórður Gunnarsson
Ástvaldur Hall
Mrs. Ástvaldur Hall
Ólafur Hall
J. T. Hannesson
Andrés Helgason
H. Hóseasson
Magnús Ingimarsson
Mrs. Albína Jónsson
Mrs. Rósa Jóhannesson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Halldór Johnson
Mrs. Jakobína Johnson
O. T. Johnson
Sigurður Johnson
Valdimar Johnson
Jónas Jónasson
Magnús Jónasson
Séra Jakob Jónsson
Jónas Jónsson
Grímur Laxdal
Th. Laxdal
Mrs. Ingibjörg Lindal
Ingi Magnússon
Mrs. Jóhanna Melsted
Fríða Pálsson
M. J. Skaffel
Árni Sigurðsson
Jóhannes Stefánsson
Mrs. Helga Westdal

**C—"Frón"**

**Winnipeg, Man.**

Stefán Abrahamsson
Mrs. V. Anderson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Mrs. Salome Backman
Gunnar Baldvinsson
Arinbjörn S. Bardal
Jóh. Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Rafnkell Bergsson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
Jón J. Bíldfell
Guðmundur Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Ólafur Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson
Dr. Ólafur Björnsson
Mrs. L. S. Blöndal
Mrs. R. Blöndal
Stefán Brandson
Mrs. Gróa Bynjólfsson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Margrét Byron
Mrs. Anna Cameron
Miss Griðmunda Christie
Mrs. Ragnh. Davíðsson
Árni Eggertsson
Stefán Einarsson
Mrs. Guðm. Eiríksson
Guðm. Eiríksson
Sigurjón Eiríksson
Mrs. Sigr. J. Eiríksson
Gunnar Erlendsson

Leifur Ellison
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
Bjarni Finnsson
Olgeir Friðriksson
Mrs. A. Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Mrs. S. Gíslason
Mrs. G. Goodman
Mrs. Ingibj. Goodmanson
Mrs. S. Gottskálkson
Ásgeir Guðjónsson
Mrs. Guðríður Agnes Gunnlaugsson
Elin Hall
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
Lárus Halldórsson
Mrs. Ásta Hallsson
Páll Hallsson
Otto Hallsson
Karl Hansson
Thorleifur Hansson
Mrs. Oddný Helgason
Finnbogi Hjálmarsson
Mrs. Jóhanna Holm
Mrs. Guðmundína Ingjaldsson
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Björg Jóhannesdóttir
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Mrs. G. Jóhannesson
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson
Ásm. P. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
J. W. Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björg Johnson
Gísli Johnson
Mrs. Guðrún H. Johnson
Mrs. Helga Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
Ingim. Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Oddfríður Johnson
Ólína H. Johnson
Th. Victor Johnson
Jónas Jónasson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Einar P. Jónsson
Gísli Jónsson
Jón Jónsson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðg. Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
Mrs. Margrét Levy
Guðmann Levy
Hannes J. Líndal
Lýður S. Líndal
Una Th. Líndal
Svafa S. Líndal
W. J. Líndal, K.C.
Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Guðmundur Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Jón Magnússon
Magnús E. Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Sr. Rúnólfur Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Mathews
Mrs. J. McAfee
Mrs. Guðr. Mýrman
W. Nordal
Mrs. Sigríður Oddleifsson
Miss K. Oddson
Valgarður Oddson
Anna Ólafsson
Áslaug Ólafsson
Gunnl. Ólafsson
Sigtryggur Ólafsson

